# Æfisøgu-Ágrip

# Péturs Þorsteinssonar

fordum Sýslumanns

í Nordur-Parti Múla Sýslu,

samid árid

1815

edur 20 árum frá andláti hanns

af

Árna Þorsteinssyni

fyrrum Prófasti í Nordur-Múla Sýslu og nú Presti ad Kyrkiubæ í Hróars-Túngu.



Kaupmannahøfn.

Prentad á rithøfundsins kostnad hiá H. F. Popp.

1820.

Qvo sis alacrior ad tutandam Rempublicam, sic habeto: omnibus, qvi Patriam conservarint, adiuverint, auxerint, certum esse in coelo ac definitum locum, ubi beati aevo sempiterno fruantur.

*Cicero in Som. Scip.*

# Formáli.

Af því ad þeir menn eru næsta siallðgiæfir í verølldu þessari, sem ásamt séu bædi vísir og gódir: sem hafi styrkt, æft og fullkomnad gáfur og krapta Sálar sinnar og Líkama í þarfligum vísindum og íþróttum, og varid so enum sømu sér siálfum til sannrar fullkomnunar, enn eblt og útbreidt kríngum sig upplýsíngu, sidgiædi og velgeingni í þeim verkahríng, er Forsiónin hefr þá hér í setta, þá vyrdist því tilhlýdiligra og skyldara, ad hallda þessara lofsverdri minníngu á lopt, bædi þeim siálfum til verdskuldads hróss og mannkosta eptirmælis, enn ødrum úti frá til góds eptirdæmis, og uphvatníngar eins ad breyta. Ad minn ógleimanleigi, heidradi og elskadi Teingdafadir Sál. Petur Sýslumadr Þorsteinsson hafi í raun og sanni verid einn í tølu þessara fáu, munu allir þeir med mér sanna, er nokkud réttiliga til hanns þekktu; hefeg því leingi í þeirri von bedid, ad einhverr af ættíngium hans, edr ødrum vanda- og vensla-mønnum, sem eg vissi ad betri efni, áhøld og tækifæri høfdu enn eg, mundu taka fyri sig ad geima

hanns gódfræga nafu frá gleimsku, og rita æfi-
søgu hanns. Enn mér hefr ekkért þessháttar enn
þá fyrir augu borid. Sonr hanns, Gud-
mundr Sýslumadr, hafdi ad sønnu eitthvad því-
líkt í áformi, og flutti med sér í þess tilliti,
utan, þá er hann sídarst sigldi, hin bestu skil-
ríki, er hértil þénudu; enn þad dróst úr hømlu
fyrir honum, og þau gløtudust ad honum øn-
dudum.

Þessvegna hefi eg nú loks lagt hønd á ad
samantaka þetta æfisøgu-ágrip, sem eg iáta og
medkénni miøg ófullkomid, og í alla stadi óverd-
ugt hinum mikla manni. Þad er ei helldr
furda, þar eg hef alls ekkért haft vid ad stydiast,
utan fáein Sendibréf, Fráságnir nokkurra kun-
nugra og þad lítid eg siálfr til veit og mig vid
ránkar; enn vissu og sannindi vonast eg hver-
vetna ad hafa haft fyri mér. Ritshætti mínum
gediast og máské mørgum ekki ad; eg hefi brúkad
þann, sem mér er tamastr. Mikla orsøk hef eg
því til ad beidast Lesendanna umburdarlyndis,
gódfýsi, velvyrdíngar, og ad þeir taki viliann
fyri verkid. Betra er ad veifa raungu tré enn
aungvu. Eg giørdi hvad skyldan baud og mér
var møgnligt. Vel sé þeim er vid eykur og um
bætir.

Ad upptelia alla þá stórgøfigu Høfdíngia, er Sálugi Sýslumadurinn Petur Þorsteinsson átti kyn sitt til ad rekia, mundi útheimta oflángann tíma. Þess giørist ei helldur þørf, þar ætt hans er ádur fullkomliga rakin og greiniliga samin af þeim hálærda, ættfróda og ódaudliga Biskupi Doct. Hannesi Finnssyni, hvøria hann skráſetti í Kaupmannahøfn 1776; og af hvørri stutt Agrip einnig er innfært í hina preutudu Æfisøgu Fødur hans Þorsteins Sýslumanns Sigurdssonar. Enn ad Sýslumadurinn Sál. hafi sýnt sig ad vera verdugann Nidia þeirra miklu manna er hann var af kominn, þar til eigu í hans eptirfylgiandi Æfisøgu framvarpi nokkur røk ad færast.

Sálugi Sýslumadurinn Petur Þorsteinsson er borinn í heim þenna ad Vidivøllum ytri i Fliótsdal þann 24da dag Decembris Mánadar 1720, og strax þareptir í Kristinna samfélag inntekinn med inni heiløgu Skírn, hvøria hønum veitti þáverandi Prófastur í Múla Sýslu og Prestur ad Valþiófsstad Páll Høgnason; hvareptir hann uppólst í sinna forelldra húsum. Þegar fadir hans Þorsteinn Sýslumadur Sigurdsson hafdi nú, eptir sem heutugleikar hans frekast leifdu, undirvísad þessum

Syni sínum í heima húsum, fól hann hann á hendr til kénnslu í heimaskóla, þeim lærdu mønnum: fyrst Hiørleisi Prófasti Þórdarsyni, er þá var Prestur á Hallormsstad; þvínæst Þórdi Þorkelssyni Vídalín, og seinast Sigurdi Presti Sveinssyni ad Eydølum, hiá hværium hann nádi svo stórri fullkomnun í bókmentum, ad hann sídan eptir þriggia vetra dvøl í Skálholts Skóla var af þáverandi Skólameistara og sídar Biskupi á Hólum Hr. Gísla Magnússyni regluliga dimitteradur árid 1742. Þessi hans velnefndur Skólameistari ásamt hans Ektahústrú Ingibiørgu Sigurdardóttur, reyndust æ sídan Petri Sýslumanni sem bestu Forelldrar, og létu hann iafnan nióta þess, ad hann var heitinn eptir Petri Markússyni, sem var Biskupsins Hr. Gísla Fødurbródir og Sýslumanns Þorsteins besti trygdavinur medan þeir vidkynntust fyri Vestan, uns hann burtkalladist i Pestarbólunni, er gékk hér í landi 1707 og 1708. Enn sá helsti velgiørdamadur Peturs Sýslumanns þar Sydra var þáverandi Løgmadur Magnús Gíslason og hans Frú Þórunn Gudmundsdottir, er þá biuggu ad Brædratúngu. Hiá þeim dvaldist hann leingst af Sumrinu 1741, þá hann med velnefndum Løgmanni í skrifarastad ferdadist, fyrst vestr ad Leyrá í Erfisdrykkiu og til dáinsbús uppskriftar eptir Odd Løgmann Sigurdsson, og sídan þadan vestur í Hrafns- og Brok-eyar á Breidafirdi.

Áminst Sumar 1741 skédi sú Nýlunda, ad Bóla barst í land med Hollendskum í Múla-

sýslu, Þegar Skólanum um sumarmál vorld eptir 1742, var ad veniu uppsagt, var hún komin allt sudr undir Skálholt; hvarfyri hann og adrir Skólapiltar tóku þad ráds, svo þeir ei af þessum skiæda siúkdómi á heimleidinni skylldu yfirfallast, ad fá sér tialld, svo þeir neyddust ei til bæia ad fara; fyri hvørt medal, næst Guds adstod, þeir allir fimm, þó ei án þrauta væri, sekum mikilla þess á millum innfallandi kullda og hretvidra, nádu ósiúkir hvørr til síns heimilis, allt ad einum, er leidina átti leingsta, og ad þessari hlífd mistri vard yfirfallinn ádr enn heim kiæmist; sá var Sveinn Petursson, sídar Rádsmadr á Hólastól, sem þá heima átti á Skiøldólfsstødum á Jøkulsdal; af hvøriu dæmi, samt ótal fleyrum, siá má: ad þad er ei alltíd, sem nokkrir meina, ómøgulegt ad umflýia þvílíkar Landfarsóttir, hvørsvegna þessa tilfellis hér og sérdeilis getid verdr.

Á þessu sama ári 1742 sem þessi úngi madur var frá Skólanum dimitteradur, fór hann um haustid utan til Kaupmannahafnar, hvar hann byriadi sín Studia Academica, og var í Stúdenta tølu inntekinn af þáverandi Universitatis Rectore og Professore Dr. M. Voldike. Ad feingnu Klaustri og Regenßi útvaldi hann sér til Lærimeistara þá nafnfrægu hálærdu menn, nefniliga Júsititsrád og Professorem Juris Dr. Chr. Ludv. Scheid, er þá var Facultatis Juridicæ Decanus, og sídan elskadi þennan únga mann sem sinn eigin Son; og Professorem Juris civilis Dr. Kofoed Ancher, hvørra

Lectiones publicas og Collegia privata hann í hálft annad ár med þvílíkri Kostgiæfni heyrdi, ad hann um vorid 1744 undir Praesidio Prófessors Dr. Scheids, opinberliga dispúteradi á Auditorio superiori; og nokkru sídar í Majo seint, þá hann aleinn í nærveru Stór-Cancellera von Holsteins var í Consistorio yfirheyrdr, tildæmdi þad Júridiska Facúltet honum hinn besta Lærdóms-Titil edur Characterem Laudabilem.

Medan hann var utanlands ávann hann sér hylli margra stórra manna, medal hverra ekki sídst má telia Greifa O. M. Ranzau, hiá hverium hann naut þeirrar æru, nærstum því daglega ad vera hid seinasta vor, sem hann var í Kaupmannahøfn, því þared háttnefndur Greifi hafdi þá feingid Expectance fyrir Stiftamtmannsdæminu yfir Islandi eptir Ochsen, girntist hann ad fá hiá þessum íslendska Student, tilsøgn og frædslu í hanns túngumáli; hvers hann og einnig þar á eptir iafnan adnaut hiá honum.

Ad sínum Studiis academicis þannig bædi fliótt og lukkuliga afloknum, vitiadi hann aptr síns føđurlands, og settist ad hiá sínum ástkiæru forelldrum, hiá hverium hann dvalldi til þess árid eptir 1745, þá hann reid til alþingis og hélldt þar uppi Løgskilum fyri hønd fødur síns. Var þá velnefndr Magnús Gíslason Løgmadr fyri sunnan og austan, sem ad veniu þá á móti honum tók med mestu alúd og af miklum gódvilia áskyldi hann ad giørast sinn Medhiálpari, og ad hann sækti um Viceløgmannsdæmid, edr

og í annan ſtad um Arneſs Sysſlu, er þá var bveitt eptir afgáng Sigurdar Sýſlumanns Sigurdsſonar frá Saurbæ, ſem hvørutveggiu vóru honum líklig og hanns þáverandi verdugleikum ſvarandi embætti. Enn annarsvegar ſtód honum fyri ſiónum áſigkomulag Fødur ſíns, ſem þá fyri rúmu ári ſøkum adþreyngiandi alldrdóms og óhreyſti hafdi, med Amtmanns ſamþykki, ordid ad taka ſér til Løgſagnara ólærdann Løgréttumann, er í Sýſlumanns verkum fátt viſſi ſem bar, og villdi því ad líkindum, ad þeſſi Sour ſinn, ødrum framar, yrdi ſinn adſtodarmadr í embættinu. Ad hvøriu ſvo vøxnu máli þeſſi úngi madur hid ſama hauſt 1745, fór aptur utan med Reydarfiardarſkipi til Kaupmannahafnar. Er hann nú þángad kom, vard hann ſkiótt þeſs vis, ad nefnd Sýſla var ødrum ætlud; og hvad áhrærdi Viceløgmanns Embættid, þá ſýndiſt honum ſer braudsvonar vid þad, eptir líkindum, lángt ad bída, þótt um þad ſókt hefdi; hvørsvegna hann vorid eptir 1746 réd af: undir nafni Fødr ſíns vid hid Konúngliga Rentukammer ad bidia um ſig honum fyri Adiunctum í embættinu, hvaruppá honum meddeildiſt þeſſa háa Collegii liúft andſvar med Conſtitution, dagſettri þann 29da Maji 1746, og fyriheiti um góds embættis von med framtídinni.

A medan hann greint ár uppihélldt ſér í Kaupmannahøfn, lét hann med tilſtyrk ſíns þarverandi bródurs, Sigurdar Gullſmids Þorſteinsſonar, prenta á ný ena gømlu Islendſku Sálmabók, hvør um þær mundir var miøg ſialdſeing

vordin, ætladi þetta þó ad hafa slæm afdrif fyri þeim Brædrum, þared Halldór Biskup Brynjúlfsson, sem þar vígdist á þessu ári, mótspyrnti ei einúngis þessu fyritæki af øllum Kræptum, helldur, þá upplagid var næstum búid, sókti um þad, ad þeir brædur skylldu því fyrir ekkert tapad hafa; hvarmed þó Biskupinn ei annad ávann enn þad: ad á þessu ári var innfærdr í Biskupanna Instrúxion hinn 52 Artikuli, hvarí ødrum enn Hóla Biskupum og Veisenhúsinu allranádugast er fyribodid bækur Islendska ad prenta og í landid ad innfæra. Þá hann nú sama ár frá Kaupmannahøfn heimkom, urdu forelldrar hanns honum fegnir, svovelsem þessum hanns útréttingum, er þeim kénna þótti forstands og mannskapar. Af Løgmanni þar á mót fékk hann minni þakkir, ad hanns rádum ei fylgt hafdi med Viceløgmannsdæmid, og nýia upphvatníng, ad láta eigi leingr undandragast um þad ad sækia, í tilskrifi frá Alþíngi af 20ta Julii þetta ár, hvørs helsta inntak hér bakvid fylgir undir Lit. A., hvaraf siá má, í hvíllíku áliti Sysslumadr Petur hiá þessum mikla manni þá verid hafi. Enn med því hann, nú Løgsagnari vordinn, hafdi, sem ádr er sagt, hugfest sér vid Múla Syslu ad vera, skrifadi hann aptr Løgmanninum til, og tiádi honum ástand sinnaølldrudu forelldra, er sinnar nálægdar, sem einasta barns þeirra hér í landi, mættu nú ei án vera, og hvad hann hérum hafdi afrádid. Ad Løgmanninum hafi þó midr líkad þessi Sysslumannsins Veigran, er hann ekki eptir svo margítreka-

dar uppħvatningar af honum, hefdi um téd Vicelögmanns Embætti sækia viliad, til hvørs hann hefdi hann fullsærann álitid, má ráda af velnefnds Løgmannsins bréfi til hanns, daqsettu 19da Julii 1747, hvørs helstu atridi hérmed fylgia munu undir Lit. B.

Á sama hausti 1746 giptist Petur Sysslumadr þeirri margdygdaudugu Høfdings Júngfrú Þórunni Gudmundsdóttur frá Kolfreyiustad, hvørrar sídar mun nokkud framar gétid verda; hafdi þeirra Trúlofan ádr framfarid í hennar fødurhúsum, enn Brúdlaupid stód í hanns fødurhúsum ad Vidivøllum ytri í Fliótsdal, sama ár á siálfa Allraheilagra messu, í margra gøfigra og gódra manna nærveru. Vorid eptir 1747 reistu þau búnad, med rádi sinna gódu foreldra, á ytra parti Iardarinnar Ketilstada á Vøllum, hvar þau sídan ávalt biuggu medan æfi endtist. Í þær mundir bió á fremra parti téđrar Iardar Ekkia Bessa Syslumanns Gudmundssonar, Jórunn Petursdottir, og hennar Son, Bacalaureus Eigill Staffeldt, hvørn Son hún átt hafdi med sínum fyrra manni, Gúdmundi Presti Ormssyni frá Stafafelli í Lóni. Þenna part Iardarinnar eignadist Petur Sysslumadr einnig nokkrum árum sídar, svo hann bió nú þareptir á allri Iørdunni, sem þá var í mestu nidrnídslu komin, søkum vanræktar, og hús øll nærri giørfallin, er hann sídan af nýiu til uppbyggdi og gørdi þar reisugann bæ, hvartil hann vardi storum kostnadi og mannvirki, hvørs ennþá siást auglióss merki.

Þá þessi úngu Hión voru á Ketilstødum adsetst, beid það ei leingi, að hennar ádrnefndur fadir Gudmundr Prestr Pálsson, af hverium hún, sem honum líkust af børnum hanns, hafdi mest ástríki, heimsókti þau; hverir samfundir urdu þeim øllum í fyrstunni til mestu gledi, enn umhverfdust vonum brádara í sárustu sorg, því þá' hann hafdi fáar nætur hiá þeim dvalid, tók hann strída Sótt, úr hverri hann andadist þann 18da Julii á þessu Sumri, var svo hans andvana líkami, að hans siálfs fyrimælum, fyri þessa hans Dótturmanns umsorgun, med sómasamligu føruneyti fluttr frá Ketilstødum ofan ad Kolfreyinstad til greptrunar þar í kyrkiunni, hiá hanns framlidnu Forelldrum. Hann var í sinni tíd med hellstu fyritaks prestum og í stærsta áliti, einkum fyri sinn Skørúngskap og Rausn sovel vid fátæka sem ríka.

Í þetta mund var Steffán prestr Pálsson Stadarhalldari ad Vallanesi. Milli hanns og ádrnefndrar Jórunnar, svovelsem annara Ketilstada ábúenda, hafdi þá fyri nokkrum árum verid ágreiníngr útaf því: ad Presturinn hafdi á Annexiu-Kyrkiunni þar nidurlagt opinbera Prestsþiónustugiørd, hver þángad til nokkrumsinnum á ári, þá fólk var til Gudsbords, framin var. Þessu Málefni hagadi þannig til: ad árid 1500 hafdi af þáverandi Biskupi í Skálholti Steffáni Jónssyni sett verid Hálf-kyrkia ad Ketilstødum med þeim skilmála: ad Þíngaprestur ad Vallanesi skylldi syngia þar tídir annanhvørn helgann dag, og taka þarfyrir í kaup 2 Merkur, enn

Ketilstada ábúanda tíundir og liósstollar skylldu hverfa frá Vallanesi til Ketilstada kyrkiu; Hvar í mót Ketilstada Eigandi Erlendr Biarnason, er þá bió á þessari iørdu, og var Valdsmadr í Múla-syslu, gaf Vallaness Kyrkiú til æfinlegrar eignar iørdina Vídastadi á Utmannasveit sem er 12 Hundrud ad dýrleika, hvørir Skilmálar sídan vidhaldist høfdu hvad Vídastadi og greinda Prests-skyldna uppgiøf snerti, enn ad því leiti þar í mót umbreytt ad Vallaness Prestar høfdu á Hálfkyrkiunni Ketilstødum aldrei optar enn fiórumsinnum á ári messugiørd framid, þá nefndrar iardar ábuendur vóru þiónustadir, er þessvegna gulldu prestinum einasta 60al. á landsvísu. Enn nú hafdi nefndr Prestr í nokkur ár hér ei viliad embættisgiørd framslytia, og af þeim, í stad Messukaupsins, þess beidz ad þeir, eins og adrir Sóknarbændur hans, honum ølln Prestsgialldi svara skylldu; bar hann fyri sig, ad þessi Hálfkyrkia væri ónaudsynlig, og fékk þetta svo framgáng allt til ársins 1748 þá Biskupinn Hr. Olafr Gíslason visiteradi Kyrkiuna, og med sama giørdi hann úrskurd: ad Þiónustugiørdin, eptir prestsins ástædu, skylldi fyrst um sinn afleggiast; í hvørs stad Ketilstada bændr skyldu, eins og annad Soknarfólk, sækia Høfudkyrkiuna og giallda til hennar og Prestsins þá vanaligu tolla og tíundir. Tók þessvegna Syslumadr Petr þad til ráds árid eptir 1749. hér um til Kóngsins út ad skrifa, sem þaruppá útgaf allranádugast Rescript, dagsett 2n Januari

1750, ad þiónustugiørdin á tédri kyrkiu skylldi halldast eins og ad fornu verid hefdi.

Um sumarid 1748. þá háttnefndr Biskup Olafr, eptir fyrráminstu, visiteradi Múla Syslu, og med sama kom ad Kétilstødum medal annars til ad giøra fyrrnefndum Eigli Staffeldt, evtir Kyrkna Inspections Collegii Skipun, áminníngu fyrir hanns fráhalld frá Kyrkiu- og Sakramentis-brúkun, bar svo til ad Eigill, eptir þad hann hafdi fært sér þad fyri Biskupinum helst til málsbóta: ad hann sem Armenian, kynni ei þannig ad samneyta fólki af þeim Lútheraniskn trúarbrøgdum, og var vid þvíllikt Biskupsins tal styggr vordinn, slóst uppá Petur Syslumann med ædisligu fast, sem annars tídum ad honum kom eptir þad hann tók ad elldast, og miklum stóryrdum, hvør Syslumadurinn sídan optar enn einusinni tilbaud honum aptr ad kalla. Enn þá þess var ekki kostr, stefndi hann Søkinni fyrst fyri Hérads- og sídan Løgþíngisréttinn, hvar Egill var dæmdr til nokkurra fiárútláta fyri sín fiølmæli, enn hlift vid æruskérdíngu, þar menn fundu þess mørg dæmi, ad þó hann hvørki lærdóm né gáfur vantadi, væri hann þó ei alltíd med fullri rænu. Héradauk gaf Egill eingann gaum ad nokkrum búskapar háttum edr medferd, hvørsvegna módir hans strax ad þessu máli afloknu, med því hún var ordin alldurhnígin, brá búi, og eptirlét Syslumanni Petri, er þá einúngis var Løgsagnari, fremra part iardarinnar, og samdi vid hann þann máldaga, ad hann þau bædi annast skylldi medan henni líf

endtist, enn eptir hana lidna átti sonr hennar Egill ad víkia til Hans Sysslumanns Wium, hverium hún med honum gefid hafdi tvær iardir í Próventu; hvaded einnig nokkru sídar þareptir fullgiørdiz.

Um þessar mundir, edr 1751 byriadist í Vapnafirdi þad mikla hallæri, er sídan gékk yfir allt landid, hvarvid nefnd sveit og nokkrar fleyri í Mula Sysslu eydilegdust nær til helfmínga, enn hid uppflosnada sátæka fólk, er ekki fell, flúdi í næstu fiórdúnga; fylgdi þessu Hallæri, ad veniu, ránskapr af þiófnadi og vandrædi af sveitarþýngslum og ómegd í øllum hreppum Sysslunnar, sem orsøkudu þad, ad Sysslumanninum, sem á greindu ári fékk ei einasta Konúnglegt Veitíngarbréf fyri hennar nordasta parti, helldur og af Amtmanni J. Chr. Pingel var tilsettur ad vera Héradsdómari í þeim 6 nordustu Píngstødum af midparti Múlasysslu, í stad Sysslumanns Hans Vium, sem nú, eptir Konúngsins bodi var frá sínu embætti súspenderadr í hinu nafnkénda Sunnifu = máli, tilféll nú stór byrdi og ørdugleiki med árligum alþíngisferdum og máladriftum, þeim einkum, er nefnt mál, í hvoriu hann þessu iafnframt var tilsettr Saksóknari, med sér færdi, og ei endadist fyrr enn med Hæstaréttardómi 1756, hvar sá dómr, er hér í dæmdur og afsagdr var ad Einarsstødum í Reykiadal 1754*) af þeim tilsettu Commissariis þá-

*) Enir tilsettu Commissarii í Sunnifu = málinu fóru alldrei austr í Múla Sýsslu, eins og Eptirmælin

verandi Vicelögmanni Birni Markússyni og Þórarni Sýslumanni Jónssyni, var upphafinn, og Sýslumanni Vium, mot flestra ætlan, hanns Embætti aptr tildæmt, þó án þess honum væru af Commissariis edr Saksóknara nokkrar bætur tillagdar; hvörn sigr og lukku flestir, framar enn málavöxtum, tileinkudu Talsmanni hanns fyrir Hæstarétti hinum þá nafnfræga Lousen, er þá framar ödrum, med sinni miklu lögkiænsku í málasóknum þótti einatt kraptaverk giöra, enda var þad mál manna, ad hann hefdi látid Sýslumann Wium eins og adra, hvörra vafasömu málstadi hann á hendr tókst, sér þvílíka framgaungu og veitt málafylgi rífliga borga. Vid þenna Hæstarettar dóm töpudu Commissarii sovel sem adrir vidkomendur öllu því er þeim í málskostnad hafdi verid tildæmt í málinu á Einarsstödum, og feingu þar á sídar einga vidréttingu, ad fráteknum Petri Syssumanni, sem Kongr allranádugast baud, ad fyri sitt fángahalld og fyrirhöfn ad sækia málid, skylldi uppbera 154 Rd. hvörir utborgast áttu sumvært af Inntekt þess Sýsluparts, er Vium tilheyrdi, og Sýslumadur Petur hafdi til lögsagnar undir höndum hast, og sumpart af Kóngsins Kassa, hvarmed svo enda tóku hans adgiördir í þessu svokölludu Sunnifu-máli, er honum þá í 4 ár aflad hafdi mikillar mædu og stórs Kostnadar.

---

pag. 639 í 264 Skíríngargrein herma, helldr hélldu Commissions-Réttinn á Einarsstödum í Reykiadal 1754, er liósast sést af Þíngs-Actinum.

Var þessi Søk á þeim tímum álitin eitt hid mesta Stórmæli hér í landi, er ekki eiginliga reis af eintómri barnsfadernis lýsíngu Sunnifu, þá lýsíngu Sunnifu, þá lístausrar, uppá Sýslumann Vium, helldur af hans, sem Dómara, grunsømum og — ep= tir sem þá þótti løgum mótstrídandi adgierdum í hennar sídara blódskammarmáli, er allt greiniliga sést af þeim dómi, nefndir Commissarii þar um sømdu.

Þrem árum eptir greindt Einarstada þíng, edr árid 1757, fór Sýslumadr Petr til Alþíngis, hvar þá ad veniu margt var talad og rádslagad milli høfdíngia um Framgáng ennar nýiu klæda = smidiu og Handverka = Innrettínga í Reykiavík, og medal annars hvar þeir feingid giætu nokkurn þann af þeirra Félags mønnum, er til þess hæfiligr væri ad annast og standa fyri þeirra Reikníngum og erindagiørdum í Kaupmannahøfn, og sem þá á því hausti vildi þángad sigla. Loks var þad afrádid, ad útvelia hér til ødrum fremr Pétr Sýslumann, hvørium þeir budu til launa 150 Rd. Hann tók og þetta um sídir ad sér fyri inniliga bón og tilløgur síns ádr nefnda mikla velunnara Herra Magnúsar Gíslasonar sem þá var Amtmadr ordinn, og undir eins setti honum fyri Løgsagnara í Sýslunni medan hann væri utan, Studiosum Juris Biørn Thomásson, er sídan vard Sýslumadr í Þíngeyiar Þíngi. Enn þá Petr Sýslumadr var til Kaupmannahafnar kominn, og ordinn kunnigr Innréttínganna ástandi, vyrdtust honum þær ei

þorfa til þóllikrar stadfestu og varanligleika, ad hann sig vid þær framveigis binda villdi.

Árid 1768 fór hann í fiórda og sídasta sinni utan til Kaupmannahafnar, med Sigurd son sinn, er þá var 9 ára, hvar til hann knúdu beggia þeirra veikindi, sökum hvörra hann þá fyrir fám árum sér fyrir Adiunctum feingid hafdi Attestatnm Theologiæ Guttorm Hiörleifsson, er þar á eptir vard Dóttrmadr hanns; vóru þess þá ei hér í Landi fyrr dæmi ad nokkr Sysslumadr fyri þóllikri konúngligri nád ordid hefdi, ad fá Adiunctum med Successíon, er hann siálfr ei leingr sínu embætti þéna kynni. Á framsiglíngunni fyrihitti Skipid fyrst á höfninni, hvar þad nærselldt hafdi strandad, og sídan á ferdinni, svomiklar byrleysur og þareptir Stórvidri, ad Skipveriar einatt voru í mestu lífs hættu staddir, uns þeir eptir mikid siövolk öndverdliga á Jólaföstu tóku Ekisunds höfn í Norvegr, hvar enn siógeingni varúngr vard ad, úttakast ag á land flytiast. Þá er því starfi var lokid, fraus Skipid inni á höfninni, hvörsvegna Skipherrann, þar undir Nýár var komid, afrédi ad liggia þar af um vetrinn, enn Petr Sysslumadr ad fara þadan Landveg til Kaupmannahafnar; hlaut þó ad eptirskilia þar sinn ádrnefnda únga Son Sigurd, er ei áleitst fær til þóllikrar lángferdar. Á þessari sinni ferd gégnum Norveg og Svíaríki, var Sysslumadrinn í 25 daga og komst til Kaupmannahafnar þann 24 da Januar 1769; hvar hann hafdi þá gledi, ad finna sinn ástkiæra bródur Sigurd Gullsmid,

og sinn annann Son, Studiosum Juris Gudmund vid góda vellidan; enn sinn í Noregi áminsta eptirskillda Son fékk hann ekki ad siá fyrr enn um sumarmál, er hann med Skipum þángad kom.

Á þessu ári 1769 var Proch í stad Greifa Rantzaus er andadist árinu ádr, nýordinn Stiftamtmadur yfir Íslandi og Færeyium, vid hvørn Sýsslumadrinn einatt tal átti um landsins naudsyniar; og medal annars leiddi honum fyri Siónir, hvørsu enar Íslendsku Erfdir væru í mørgum greinum órimiligar og fráleitar þeim, er annarstadar í Kóngsins Ríkium vidgeingiust, hvad þessi Herra lét sér vel skiliast; hvarfyri Sýslumadrinn med hans vitund og Samþykki undir sinu og nokkurra annara nafni, med einum Memorial tiádi Konungi svováxna Søk. Af þessu hans fyritæki leiddi þad, ad andsvar útkom skømmu sídar: ad Erfdir hér skylldu ei gánga frá þá næstkomandi Nýári 1770 eptir enní gømlu Jonsbók, helldr eptir norsku Løgum svosem lióst er af því hér um útgéfna Konúngliga Rescripti af 17da Febr. 1769.

Um vorid, ádr enn hann byriadi sína Heimferd út híngad, hitti hann enn hálærdan, nafnfræga og mikla Gudsmann og Íslands Patrón, Biskup Herra Harboe, og sókti um hiá honum, ad hanns áminnsti úngi Sonr Sigurdr, sem þá var nýfarinn ad byria Látínu lærdóm, mætti verda innitekinn í Róiskéldu Skóla. Hér um veitti háttnefndr Biskup honum vilyrdi enn søkum hanns úngdóms vard þad ei fram-

geingt fyrr enn 5 árum sídar, edr 1774, þá hann var í tédann Skóla settr, og þar innskrifadr í 4du Lectíu.

Þared Petr Sysslumadr nú fyrisá, ad þetta mundi verda hinnsta sinni er hann sæi Kaupmannahöfn, lét hann undir sína heimferd med Reydarfiardar Skipi, sem þá vard mjög sídbúid, smída læsta Altaris Töblu, á hvöria midia hann lét uppmála mynd sína á krossinum hángandi Lausnara, og þar umhverfis sína, og sinnar þá fyri 5 árum burtsofnudu, ógleimanligu Ektakvinnu, med þeirra 10 börnum. Þá er hann heim kom, gaf hann þessa Töblu Annexiu kyrkiunni ad Ketilstödum, er fyrrum helgud var enum helga Andresi Postula.

Arid 1766, þá hinn sannkalladi Íslands mikli velgiörari og fóstrfadir Fridrik konúngr inn fimti andadist, hvad þessa Lands börnum má leingi hugstædt vera, var á Alþíngi Hyllingar eydur unninn Syni hans, Kristiáni konúngi Siöunda. Enn med því allfáir voru þar tilstadar úr Nordlendínga fiórdúngi, er þann eyd vinna skylldu, enn einginn úr Múla sýsslu fyri utan Petur Sýslumann, lá vid bord, ad hérnppá eitt Störþíng mundi tilsett verda. Rédist þad þá samt af, ad Amtmadr til vidkomenda stærstá hagnadar og kostnadar léttirs, setti Svein Lögmann Sölvason í sinn stad til ad taka þennann eyd í Nordrlandi, enn Sýslumann Petur í Múla Sýslu, hvörin til framkvæmdar hann seint í Augusti mánudi sama ár öllum Syslunnar Embættismönnum, andligrar og veraldligrar stéttar,

sem og Jardeigendum, á eina Samkomu samanstefndi ad Valþiófstad í Fliótsdal, hvar hann af þeim tók Hyllíngar eydana, er hann med Skipunum sama haust út sendi.

Um øndverdt Alþíng þetta sama Sumar giørdi hann ferd sína sudr ad Besfastødum med Hólmfridi dottur sína þá 10 ára, hvørri þáverandi Amtmadr Herra Olafs Steffánsson, er í þad mund hafdi sitt adsetr á Besfastødum, af tilstilli síns Teingdaføeurs og Sysslumannsins stadfasta velunnara, Magnúsar Amtmanns Gíslasonar, til fóstrs bodid hafdi, hvar hún sídan í nokkr ár naut þvílíks vidrgiørníngs og mentunar, sem hún þeirra eigid barn verid hefdi.

Ad 10 arum hér frá lidnum edr árid 1776 fór Petur Sysslumadr seinasta sinni til Alþíngis, medal annars til ad framfylgia, eptir Skikkun, máli nockru mót Jóni Sysslumanni Arnórsspni, sem og til ad veita fylgd og førunevti sinni ádrnefndri dóttr Hólmfrídi, þá heitmey Odds Steffánssonar, er í þær mundir var Notarius í Yfirréttinum og Stiftamtmanns Hr. L. A. Thodals Fullmegtugr. Þessa ferd giørdi hann fram og tilbaka yfir Spreingisand, hvørn Hræsaveg ferdafólk var þá nýfarid ad leggia til Sudrlands, eptir ad hann um lánga tíma hafdi af flestum aflagdr verid. Ad þessu Løgþíngi nær endudu bar svo vid, ad madr nokkr nýútkominn med Eyrarbakka Skipi bar á þíngid þau tídindi, er øllum þar komu óvart, ad enn gamli Islendski Høndlunar-Taxti af 1702, sem nú hafdi

vidhalldist í nærstu 74 ár væri upphafinn med ødrum nýium konúngligum Taxta útgéfnum þann 30ta Maji sama ár, hvørn hann og einnig gat þá framvisad. Vid þetta brá miøg mørgum, er þeir merktu þá ýfrid stóru upphækkun, er nú var ordin á kornvørum, samt iárni, triávid, veidarfærum og fleyrumLandsins þarfindum, er þeir af útlendum þurftu ad kaupa, og hvørsu innanlands varníngs upphækkan, ad fráteknum fiskivørum, var því ei iafnvæg, hvad ei sýndist í hørdum árum vel stadist géta. Var þá Petr Sýslumadr ásamt nokkrum ødrum, af Amtmanni til til þess kiørinn ad láta sína þánka í liós vidvíkiandi þessum nýia Høndlunar Taxta, hvad af honum og þeim var fyritekid í mesta fliótrædi, undir siálfar þínglausnir.

Heimkominn úr þessari Løgþíngisferd hafdi hann í hyggiu ad setiast í Kyrrsetu og nióta nædis eptir svo lángar Embættis annir. Enn þared Sonr hanns Gudmundr, hvørn hann hafdi feingid sér ádiungeradann í embættinu med Succession 1772 í stád ádr umgétinus Teingdasonar síns Guttorms Hiørleifssonar, sem burtkalladist seint um haustid 1771 *), var enn þá miøg lasinn

*) Guttormr Sýslumadr Hiørleifsson datt ekki af hestbaki á þann hátt, ad hann drægist í ístadi edr laskadist þar af, sem Eptirmælin bera pag. 637; helldr vard hann brádkvaddr fyrir utan Hrafnsgerdis-á í Fellum, hnie þar af hestinum og var strax ørendr, eptir frásøgn þeirra, ér þá voru hanns medreidarmenn og enn þá eru lifandi, nefnilega bóndans á Hrafnabiørgum Magnúsar Jóns-

ad heilsu, mátti hann fyrifallandi embættisverk á hendi hafa, þartil tédum Syni hanns var albatnad. Samt var hann ad ødruhvøriu vid þau ridinn, uns hann fékk lausn frá þeim í nád árid 1786. Eptir þá tíd mun hann ad sønnu dóm geingid hafa í Barneignarmáli Gudrúnar nokkurrar Thomásdóttur; enn til þess var hann settr af sínum yfirvøldum sem Yfirdómari; hafdi Jón Sýslumadr Sveinsson ádr, sem Undirdómari, dæmt téda Gudrúnu frá lífinu; enn Petr Sýslumadr ályktadi hana einúngis til húdláts refsíngar, og var þad hanns id sídarsta Dómaraverk.

Þess er ádr gétid ad Petr Sál. Sýslumadr hafdi árid 1746 inngeingid heilagann Ektaskap med Jungfrú Þórunni Gudmundsdóttur prests frá Kolfreyiustad, Pálssonar, prests samastadar og Prófasts í Múla Sýslu, Ámundasonar. Módir Þórunnar og ektakvinna Gudmundar Pálssonar var hin gódfræga høfdíngs kvinna Þórunn Pálsdóttir Prófasts og Prests ad Valþiófstad, Høgnasonar. Ektakvinna Páls Prófasts Høgnasonar var Þóra dóttir ens nafnfræga Skálds Steffáns prófasts í Vallanesi Olafssonar Prófasts í Múla Þíngi og Prests ad Kyrkiubæ í Hróarstúngu, Einarssonar Officialis og Prests ad Heydølum, nafnfrægs Skálds og ættsælsta manns. Med þessari sinni elskudu ektakvinnu Þórunni lifdi hann í ununarsamri

sonar og Jóns Biarnasonar, nú vinnumanns á Hólmum í Reydarfirdi.

hiônabands sambúd í 18 ár, hvöria Gud blessadi med 10 Börnum, af hvörium 6dóu á úngbarns alldri, enn 4 lifdu þá hann andadist, og voru þessi eptirfylgiandi:

1) Gudmundr fæddr 1748, sigldi í fyrsta sinn uppá sín Stúdia til Kaupmannahafnar Háskóla 1767. Vard Adiunctus fødur síns med Successíon 1772; virkiligr Sýslumadr í Nyrdri Múla Sysslu 1786; giptist í fyrra sinn sínu Systkynabarni Þórunni Pálsdóttur, og aptr sídar, ad þessari látinni, Systrdóttr sinni Þórunni Guttormsdóttur. Vid næstlidin alldamót hafdi hann fiórum sinnum utan farid til Kaupmannahafnar, og í fimta og seinasta sinn miøg heilsulasinn 1807 med Vopnafiardar Skipi. Enn þar þad á ferdinni til Danmerkr søkum mótvinda neyddist til ad leggia inn í Norvegi, fékk Sýslumadrinn þar ena sorgligu fregn: ad Kaupmannahøfn væri af Enskum innutekin, hvørsvegna hann rédi þad af ad dvelia þar vetrarlángt. Komst svo vorid eptir med áhættu til Jótlands og þadan til Kaupmannahafnar, hvar hann tleingdist vegna strídsóróans til 1810, þá hann um Sumarid komst loksins þadan til Leith í Skotlandi. Þar mátti hann dvelia vetrinn eptir, og hafdi áset sér um vorid þá Skip gêngi þadan, ad vitia aptr síns fødrlands. Enn á medan Íslandsfarar voru ad búa sig þar til híngadsiglíngar, svipadi hann sér til Lundúnaborgar

á Englandi, hvadan aptrkomiun hann skyktist og deydi þann 12ta Augusti 1811. Var útfør hanns gør sæmilig af nokkrum máls metandi mønnum í Leith, hvørra hylli og álit hann um sinn stutta þarverutíma hafdi sér áunnid.

2) Biørg fædd 1749 giptist fyrst Guthormi Syslumanni Hiørleifssyni 1767. Vard ekkia eptir hann 1771. Inngékk aptr ektaskap med Arna Prófasti Þorsteinssyni presti, fyrst ad Hofi í Vopnafirdi og sídan ad Kyrkiubæ 1783. Hún lifir enn, og af hennar 9 børnum med þeim 2 hennar Ektamønnum, 3 Synir og 4 dætur.

3) Hólmfríður fædd 1755, giptist 1776 Oddi Steffánssyni þáverandi Nótario í Yfirrettinum, og sídan Klausturhaldara á Þingeyrum. Af þeirra niu børnum lifa nú einúngis 2 Synir og 2 dætur, enn hún siálf í ekkiustandi hiá syni sínum Petri Syslumanni Oddssyni; og

4) Sigurdr, fæddr 1759, fór fyrst med fødr sínum til Kaupmannahafnar 1768, sigldi aptr þángad 1774, þá hann var inntekinn í Roiskélldu Skóla, hvadan hann útskrifadist 1779, stúderadi þvínæst nokkr ár vid Háskólann og tók Atteslats med Charactere Laudabili; fékk þareptir Kiósar-Syslu 1789, hvørri hann af sér sagdi søkum óhreysti 1801, enn fékk algiørliga lausn frá embættinu í Nád 1803. Hann lifir

enn þá í Reykiavíkr Kaupstad, embættis-laus og ókvæntr.

Þegar Petr Sýslumadr og Þórunn Sál. hefdu nokkr ár saman verid, tók ad brydda á þeim veikindum hennar, er sídar urdu hennar Banamein. Þessi hennar óhreysti, svovelsem siálfs hanns lasleiki knúdi hann til — þar hvørki var læknis edr medala ad leita fyrr enn á Sudurlandi í Ness Apotheki — ad leggia sig eptir læknis konst, hvar í hann nádi þvílíkri fullkomnun, er þar eptir alliafnt lét sig í liósi í margra Siúklínga heilsubót, er til hanns leitudu. Enn veikindum sinnar elskudu Ektakvinnu gat hann ekki burtu rýmt, einkum þar hún hafdi mestu óbeit á medala brúkun. Þau ølnudu þessvegna svo, ad hann mátti siá á bak henni 1764 og syrgdi missir þann sídan alla æfi. Hún var og eptir allra kunnugra frásøgn eitthvert hid fullkomnasta Góð-kvendi.

Eptir hana látna lifdi hann í Ekkiumanns standi þadan frá, unns hann haustid 1774 giptist ødru sinni Jómfrú Sigrídi Olafsdóttr, med hvørri hønum vard ei barna audid. Hefr hún eptir hann lifad í ekkiustandi 20 ár og er nú til húsa hiá bródr sínom Bryniúlfi presti í Stød.

Sál. Sýslumadr Petr hafdi leingst af eptir fertugs alldr haft bæriliga heilsu, og nærfellt betri þá áleid enn hans háa hálf-áttrædis alldri svaradi; var hann optast hvørsdagsliga á fótum, og gégndi þeim hlutum, er til hanns koma þurftu; nema hvad kunnugir menn máttu siá, ad á sídurstu árum hans lífs tók burdum hans

miøg ad hnigna, hvar med fylgdi nokkr minnis breſtr. Samt bar hann ſig alltíd vel og hrauſtliga, allt til hinns 28da dags Novembris mánadar 1795, þá hann tók ſína banaſótt, er byriadiſt med miklum ſkiálfta og kølldu hrolli, var þó ekki ad merkia miøg úr hóſi ſtríd fyrr enn fiøgr en ſídurſtu dægr lifs hanns, þá hann vard yfirfallinn af geyſi þhugſlum fyri bríóſtinu, er orſøkudu tregleika andrúmſins, hvør hann ſiálfr, ſovelſem þar þá nálægr fiórdúngs Læknir, Bryniúlfr Peturſſon, álitu fyrir elli laſleika, er innan ſkamms mundi heimleida hann frá þeſſa heims andſtreymi til eylífrar fagnadar-ſælu. Preidi ſvo þeſſi ſæli Gudsmadr med þolinmædi trúarøruggr eptir þeirri ſtund, undir hvøria hann hafdi ſig leingi búid, ad leyſaſt hérfrá og vera med Kriſti, hvørs einnig Lífſins og Daudans Hertogi honum unnti, fyri hægt og ſálú hiálpligt andlát, þann 3dia Decembr. umgétins árs ſkømmu eptir kvøldvøku, ad endudum húſſleſtri. Vantadi hann þá 21 dag til ad hafa fyllt 75 ár; enn Syſlumadr hafdi hann verid 49 ár, ad medreiknudum þeim árum er hann var Løgſagnari fødr ſíns, og lifad í hiónabandi med bádum ſínum ektakvinnum 39 ár, ad fráreiknudum þeim 10 árum, er hann millum þeirra var ekkiumadr. Hanns andvana líkami var fluttr, med ſómaſamligu føruneyti, frá Ketilſtødum ad Vallaneſi, hvar hann var leiddur í midri Kyrkiu, hiá molldum hanns fyrri elſkudu ektakvinnu, Þórunnar Gudmundsdottr, og hennar ádr andada brødurs Páls Próſaſts, er ſeinaſt var preſtur til

Vallaness Sóknar. Á líkkistu hanns var sett Silfurplata, á hvöria grafid var: Toparcha Petrus Thorsteini filius non omnis.

Ad líkams vexti var Sál. Petr Sýslumadr med hærri medalmönnum og hafdi þrekleika eptir hæd. Ad andlits ásýnd var hann bædi fríðr og höfdíngligr. Hversdags framgánga hans var med reksamligri stillíngu, hverri einnig svaradi önnr hanns háttsemi, bædi í klædaburdi, geest-risiúu, gódgiördum og heimilis hátta fyrisögn. Í lofordum sínum var hann viss og halldinnordr. Í vidrædum helldr seintalandi enn fliótmæltr, skír, skörugligr og gagnordr. Vid Gésti, einkum þá er vóru honum kunnugir bædi snotrliga skemtinn og vidfeldinn; í búskapar háttum og bússtiórn einhverr inn mesti hófs og reglumadr. Elskadi hann ávallt gott og rádvandt Skikk, lofsverdann manndóm og framkvæmd, og hrósadi þeim iafnan, er hann sá og vissi ad vel stundudu dád og dugnad; hélt og hiúum sínum til ins sama, nefniliga idni, verkhyggni, manndóms og þrifnadar, hvers, og flest hanns hiú og fóstrbörn sídan báru gódar meniar. Í hérads-stiórn hanns var ætíd samfara reksemi og sanngirni; leid hann alldrei ad lestir og óknyttir nædu strafflaust yfirhönd. Í öllum sínum embættisverkum svo vandadr og rettvís ad dómar hanns vóru ávallt stadfestir af ædri Réttum. Hann var víst einn med þeim lögkiænustu mönnum hér á landi í sinni tíd, hversvegna hann og iafnan var af Landsins Háyfirvöldum vel metinn, og á Lögþingum, þá svo barst undir

til enna meiri vandamála álits og urskurdar kvaddr. Var hann og einn af þeim Sÿslumønnum, er kiørnir voru til ad giøra atþugasemdir vid Politie-Conceptid, sem Commissarii sømdu er híngad sendir voru 1770.

Enn þessar og adrar fullkomnanir hans, sem hiá hans yfirbodurum og øllum gódum mønnum áunnú honum verdskuldadann heidr og hylli, høfdu, ad vanda, mótsetta verkun hiá enni øfundandi óvilld og ødrum þeim er midr voru þeinkiandi, hiá hverium þær urdu ad tundri til ad uppkveikia um hann óhródr og álas. Fremstr í þessara flokki var hans forni óvildarmadr Hans Syslumadr Vium, sem ekki einúngis ófrægdi hann hér í landi, helldr bar þá ósønnu ákiæru fram fyrir Cammer Collegium, ad hann hefdi brúkad peninga þá, er af nokkrum Sÿslum í Landinu gefnir vóru, til vidrettíngar fátækum uppflosnudum bændum í Nyrdri Múla Syslu, í hallærinu sem gékk frá 1751 til 1757, sér siálfum til hagnadar, enn ekki þeim. Enn ad hátt-nefnt Collegium hafi ei lagt trúnad á framburd Viums, sÿnir þad: ad Kløgun þessi var innsend til Skiríngar þaverandi Amtmanni Herra Olafi Steffánssÿni, er áleit hana eintómann róg, sem siá má af andsvari því er hann tédu efni vidvíkiandi gaf háttnefndu Collegio, og hér med fylgir undir Lit. C.

Auk hinna stóru mannkosta hanns, sem ádr eru upptaldir, hafdi hann til ad bera þá høfuddygd, sem allar adrar yfirgeingr, nefnilega hræsnislausa Gudrækni, er og einnig lét sig í lióst

í öllum hanns athøfnum. Var hann og framar mørgum ødrum upplýstr í Gudfrædinnar lærdomi, las hann ekki einúngis siálfr gódar Gudfrædis bækur, helldr og lét idugliga hafa Guds ord um hønd fyri sínu heimilis fólki, hvørt hann einatt á Vetrartímum yfirheyrdi siálfr í þess Barnalærdómi, og var þannig sem Sálusorgari í sinn eigin húsi. Af Gudfrædisbókum hafdi hann einkum í metum allar andligar Rædur ens mikla Mælskumanns Péturs Biskups Herslebs. Tók sér því fyri heudr ad þýda á Islendskt mál hanns 7 Prédikanir útaf 7 ordum vors Frelsara á Krossinum, hvøriar hann, ad gódra vina tilmælum, lét sídan prenta í Kaupmannahøfn 1770, og selldi þær Landsmønnum sínum med hæriligu verdi.

Þess er ádr gétid, ad hann øndverdliga á æfi-árum sínum lagdi sig eptir Læknískonst, og med því hann var einhvørr enn besti efna madr, keypti hann árliga bædi góð og mikil medøl, hvarmed hann kom fiølda fólks til hiálpar, bædi í útvortis og innvortis veikindum; hafdi hann þessvegna iafnan mesta átrodníng og adsókn af Siúklingum, hvørra fáir báru allt sitt mein frá honum, enn margir fulla heilsubót, á medal hvørra eg vil einúngis nefna 2, sem høfdu meinsemdir þær, er flestir helldu olæknandi. Annar var nágranni hanns Þorsteinn bóndi Arnason frá Eyolfsstødum, er til hanns var fluttr, yfirkominn í vatnssýki, hvørr þó fyri hanns nákvæmu og skynsamligu vidleitni vardum sídir alheill, og lifdi þareptir full 30 ár. Hinn var

Jón nokkr bondi Sigurdsson frá Fossi í Vopnafirdi, nær banvænn ordinn af krabba í andlitinu, hvørs rætur og taugir voru svo lángar, ad til þess fyri þær tækist, mátti afskéra efri vør hanns, og nær eins mikid af enni nedri, samt klipa og skéra burt allt hid hola af hanns vinstri Kinn. Enn fyri nakvæma alúd og vidburdi Sál. Syslumannsins og nærgiætna gódra medala brúkun, var þetta stóra Sár algróid á rúmum 3 vikum, og madrinn þareptir nær lítalaus.

Fátækum þeim er hann sá ad vóru sannir ølmusumenn edr þeim sem voru ómegd og bernum bundnir, enn villdu stunda vel gagn sitt, midladi hann gódfúsliga bædi ad giøf og láni. Sérílagi naut ørlætis hanns og gódvildar hreppr sá, í hvørium hann hafdi alliafnt búid, og svo vel blessast og audsæll verid, þar hann í sínu Testamenti, er af honum samid var 1792, gaf 2r Barnamønnum á Vallna hrepp þá 200 Rd., er hann átti rentuberandi í enum Danska og Norska Species Bánka, og fyriskipadi svo: ad þeir árliga nyti ávaxtarins af tédum peníngum, enn Høfudstóllinn skylldi um alldr og æfi óskérdtr standa. Gódgirni hanns og høfdíngligt ørlæti lét sig einnig í lióssi vid þá er einhveria sérliga dugnadar vidburdi og mann-æru syndu, sem fylgiaudi dæmi vottar: Þegar Islendskir Stúdentar í Kaupmannahøfn orktu Erfiliódid Fridriks drápu til verdugrar ærumiñníngar enum odaudliga Laudsfødur og konúngi Fridriki 5ta, til hvørrar prentunar þeir veria máttu tøluverdum kostnadi, var hann sá eini af þeim þá hér-

lendum, sem undir sagdann kostnad þeirra létti med 20 Rd., er hann sendi þeim ad giøf árid eptir, hvøria þeir einnig þøkkudu sídar í Latínskum Liódmælum.

Þetta svo stutt og ófullkomid æfisøgu ágrip Sál. Peturs Sýslumanns, í hvøriu ekkért overdskuldad hól er á hann borid, á ad sýna, ad land vort í fráfalli hans hafi mist einhvørn enn ágiætasta Høfdíngia og nytsamasta merkismann; Nyrdri Múla Sýsla stiórnsaman, réttvísan og vandadan valldsmann; Børn hans besta fødur, er eingann kostnad sparadi til þeirra menníngar; hiú hans ráddeildarsamann, rádhollann og eptirbreytnisverdann húsbónda; vinir hans trúfastann og einlægann ærumann; naudstaddir, barnamenn og fátæklingar þrautgódann, medlídandi og hiálpsaman efna mann, og Siúklingar nærgiætinn, heppinn og nákvæmann Lækni. Mun því minníng hanns í blessan blífa hiá øllum þeim er dygdina þekkia og eru henni unnandi.

# Fylgiskiøl.

## A.

Ágrip af Brèfi Magnúsar Løgmanns Gíslasonar, dagsettu á Alþíngi þann 20ta Julii 1746 til Péturs Sýslumanns Þorsteinssonar.

"Ekki hefi eg fyllt flokk þeirra, sem hafa giørt mikid af ydar passalausri Siglíngu, og úti er Arinbiarnar óþokki. Eg er forreidur, ad ei giørdud Ansøgning um Vice-Løgmanns Embættid, því Gud hefur gefid ydur bædi vit og krapta til ad fyriſtanda því; og ad vísu er eg sama sinnis enn nú, og ítrera minn vilia, ad þér giørid Ansøgníng nú í Sumar.

Ekkért þarf þad, mon ami! ad hindra, þó góz hans í Austfiørdum sé liggiandi, þar bædi er hann svo kunnugur fólki, ad umbodsmann gétur haft, líka kynni honum Leiligheð géfast ad innleysa til sín eitthvørt Klaustur. Eg uni illa vid, ad Landid skuli straffast med einum tossa eptir annann, sem eg heyri von sé til, ef . . . . . súccedérar mér."

B.

Ágrip af Brèfi Magnúsar Løgmanns Gíslasonar, til Peturs Sýslumanns Þorsteinssonar, dagsettu á alþíngi þann 19da Julii 1747.

"Nú er ekkért Brèfsefnid, því einginn nefnir Viums mál vid mig, og eg vid eingan. Passamálid er ordid of gamallt, og af þeim einasta fært í tal og alid, er villdu menn hefdu hvørgi farid. Gandske fornuftigt raisonerid þèr í innløgdum Sedli í brèfi ydar, því þó mèr hafi fyri Guds nád aldeilis inhabil fleytst ísoddan søkum, er ei víst ad þeim sem eru miklu meiri menn enn eg, verdi hægri Sess eptir mig, enn nú er hann mèr, og seigi eg ydur satt, ad fullt skeinkir Øfundin mèr, og finn eg hana svo sterka allt um kríng, ad eg gled mig, ad so mikils vyrdir þann, sem ei er heunar verdugr. Enn þar eg finn bein mín taka ad veikiast, þá var mitt einasta Ønske, ad siá einn habil mann beklæda mitt Sæti, því þarmed villdi eg hafa sýnt þakklæti mitt vid Fødurlandid, af hvørin eg, enn þad ekkért af mèr, hafdi þeigid so mikid og gott. Og því proponeradi eg ydur Successionen, ei af vinskap, helldr ydar meriter, hvøriar eg elsk-

adi, þar Réttur og Réttferdugheit hafa verid mitt augnamerki, og eg var forsikkradur um ydar inclination til sama. En fin! Lídi Gud mig svo leingi sem honum þókknast, og gêfi í mitt sæti þann siálfur útvelur.„

C.

Póstur úr Brêfi Olafs Amtmanns Stephensen til Kammer-Collegium, dagsettu þann 3dia Augusti 1768.

"Den imod Sysselmand Thorstensen giorte Beskyldning om utilladelig Handel og mislige Omgang med den Collect, der er giort af Sysselerne til Ødegaarders Istandsættelse udi Mule Syssel, anseer jeg for en Calumnie, saalænge der om ei fremkomme fuldstændige Beviser. Thi Sysselmand Thorstensen er bekiendt for en honet og meget redelig Mand, og anseet af alle og enhver, formedelst hans gode Fornuft og smukke Opførsel, blandt de fornemste Sysselmænd i heele Landet. Sysselmand Wium veed man og har været i mange Aar hans Efterstræber, hvorfor jeg kan ei andet, end fatte billig Suspicion om hans Angivelses Rigtighed, som han sponte, og allene for at diffamere Thorstensen, har fremsendt til hans høyeste Superieurer.„

